# Æfisaga

sáluga

Klausturhaldarans

# Pauls Jónssonar,

samin

af Syni Hans

Pauli Paulssyni,

*Candidat. Philosoph.*

---

Videyar Klaustri, 1820.

Prentud á Erfíngjanna kostnad,

af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.



Syr. 14, 18.

Allt hold slitnar, sem klædi, þvi ad
þad er hinn gamli Sáttmálinn:
þú hlýtur ad deya.

---

Klausturhaldarinn sál. Paull Jóns-
son var fæddur á Sydri Fljótum í
Medal-landi og Vestur Skapta-
fells Sýslu, þann 29da Martz 1737,
af fátækum en gudhræddum Foreldr-
um bænda-stéttar, nefnilega: Jóni
Snjólfssyni og Hallgierdi Olafs-

dóttur, vóru þessi hjón af bestu ættum; hvad ljóslega sýnir eptirfylgjandi

## Ettartala:

Foreldrar Jóns vóru Snjólfur Bjarnason og Cecilia Kristín Jónsdóttir, merkis hjón. Fadir Snjólfs var Bjarni Prestur ad Skardi í Medallandi; hans kona Olöf Einarsdóttir; þeirra born vóru, fyrir utan Snjólf: a) Einar Prestur til Kirkjubæar Klausturs og Prófastur í Vestur Skaptafells Sýslu. b) Gissur, seinast Prestur til Breiduvíkur þínga í Snæfellsnefs Sýslu. c) Paull Lögréttumadur. d) Einar. Fadir Bjarna Prests var Sveinn Prestur til Kirkjubæar Klausturs; hans Fadir. Bjarni Helgason, módurbródir Odds Biskups Einarssonar.

Fadir fyrrnefndrar Olufar, var Eiríkur bóndi ad Skál á Sídu; hans Fadir Jón; hans fadir og svo Jón; hans fadir Þorvaldur. Módir Olufar var Helga Stephánsdóttir Prests ad Odda og Prófasts í Rángár þíngi; hans fadir Gísli Biskup Jónsson,

Fadir áðurnefndrar Ceciliu Kristínar, var Jón Sigurdarson elldri, Klausturhalldari Reinínessstadar Klausturs; hans fadir Sigurdur Lögmadur; hans kvinna Þórdís; en hennar fadir var Jón Sýslumadur í Húnavatns Sýslu, og Klausturhaldari ad Þíngeyrum; hans fadir var Bjørn Prestur ad Miklabæ og Prófastur í Hegraness Sýslu; hans fadir Jón Biskup Arason. Fadir Sigurdar Lögmanns, var Jón Sýslumadur í Árness Sýslu; hans fadir var Þorleifur Prestur ad Odda og Prófastur í Rángár Þíngi, hvers kona var Gudrún Bjørnsdóttir Prests ad Stadastad og Prófasts í Snæfellsness Sýslu; en fadir Þorleifs Prófasts var Jón, nafnfrægur madur, er átti Gudrúnu Hákonardóttir Lögmanns; fadir Jóns var Gísli Biskup Jónsson, er átti Kristínu Eyólfsdóttir Mókolls og Gudrúnar Eiríksdóttur Riddara, Loptsonar Ríka og Vatnsfjardar Kristínar.

Kona fyrrnefnds Jóns Sigurdarsonar, fódur Ceciliu Kristínar, var dönsk ad ætt;

sonur þeirra hét Axel Fridrik. Bródir Jóns Sýslumanns Sigurdarsonar, var Jón yngri Sigurdarson, sem vard Sýslumadur í Mýra Sýslu 1676, og í Borgarfjardar Sýslu ásamt 1678; hans qvinna Ragnheidur Bjarnadóttir frá Gaulverjabæ; þeirra synir: Sigurdur Sýslumadur Borgfirdínga og Jón Prófastur í Stafholti, fadir Jóns Sýslumanns í Rángár Þíngi, fodur Frúr Valgérdar ad Odda og hennar Systkyna.

Annar bródir Jóns Sýslumanns Sigurdarsonar, var Gudmundur, er átti Gudrúnu Eggertsdóttur Sýslumanns á Skardi; þeirra dóttir Frú Þórun, Ektaqvinna Amtmanns Magnúsar Gíslasonar; þeirra dóttir Frú Sigrídur, Ektaqvinna Stiptamtmanns Olafs Stephánssonar, en módir Conference-ráds og *Doctor Juris* Magnúsar Stephensens og hans Systkyna.

Systir nefndra brædra Sigurdarsona, var Ragnheidur, Hústrú Sigurdar Logmanns Bjørnssonar, fodurfodur Sigurdar Logþíngisskrifara.

Olafur og Gróa vóru Foreldrar Hallgërdar, módur Klausturhaldarans sál.; þau vóru merkis-hjón, og áttu einnig ætterni sitt ad rekja til margra merkra manna, mest þó í bænda-stètt, sem ecki verdur med jafnvægri vissu fráskírt.

---

Hjá Foreldrum sínum naut Klausturhaldarinn sálugi uppeldis og þeirrar uppfrædíngar, sem efni vóru á, þar til Hann á 24da aldurs ári, edur 1761, giptist frændstúlku sini Valgerdi Þorgeirsdóttir, sérdeilis efnilegri Bóndadóttur frá Arnardránga í Landbroti; sá rádahagur reyndist einhverr hinn farsælasti; þau unnu mikid hvert ødru og vóru samtaka í allri ráddeild og dugnadi. Sama árid og Hann giptist reisti hann bú ad Eystra-hrauni í Landbroti, og fyrir sérlega framsýni og atorku, samt lán þad, er Forsjónin tillagdi Honum, kom mikil blessan í bú

Hans. Eptir 13 ár flutti Hann bú-ferlum ad Horgslandi, og var Hon-um þá 1774 á hendur falin Forstada Hospítalsins þar. Hér bjó Hann í 10 ár, og naut sama láns, sem fyrr, og svo mikil var búsæld Hans, ad þegar Hann fluttist þadan um vorid 1784, vissi Hann ecki sjálfur tolu þess saudfénad-ar, er Hann þá átti; en þetta mátti Hann þá yfirgéfa, sem mestallar adrar egur sínar, í þeim mikla jardeldi, sem þá geysadi í austur-parti Vestur-Skaptafells Sýslu, og hrakti marga frá búum sínum vestur í adrar Sýslur.

Þetta vor, sem nú er um gétid, flutti Klausturhaldarinn sál. sig med fjolskyldu sína—13 manns—á 1. hesti, sudur á Selrjarnarnes, og med þessari fjolskyldu setti Hann sig nidur fyrst 1 ár í Hlídarhúsum, og þar eptir 1 í Mýrarhúsum; hér safnadist ad Hon-um fjoldi af náúnga-fólki Háns, sem

hafdi hrakist ad austan, hverju Hann nú, sem Fadir, lidsinnti, og áleit sig sælann, ad géta þar til varid því af eigum sínum, er Hann ad austan hafdi fengid med sér flutt. Auk þessa lidsinti Hann med rádi og dád mørgum ødrum, sem þá ad austan komu og hús Hans ecki fengu rúmad.

Því af eigum sínum, sem eptir urdu eystra, mátti Hann nærstum øllum sjá á bak, vegna vøktunarleysis og óreglu þeirrar, er þar vard almenn.

Eptir ad Hann nú þannig hafdi í 2 ár verid svo gott sem í þurrabúd á Seltjarnarnesi, var Honum 1786 á hendur falin umsjón Hospítalsins á Gufunesi, og fluttist Hann þángad þad sama ár; héldt Hann þessari Forstødu uns sú Stiptan nidurlagdist, ad Konúngs-bodi, í Fardøgum 1795. Árid 1788 féck Hañ Flegu-Jardir í Skaptártúngu til Forpaktníngar, en 1789

Kirkjubæar Klaustur, hverjum Forpaktningum Hann héldt til daudadags.

A Gufunesi skyldi ecki sú fylgisama blessan og búsæld vid Hann, svo mikinn kostnad, sem Hann hafdi fyrir mentun Sona sinna, og svo mikla rausn sem Hann sýndi bædi ríkum og fátækum. En — hér mátti Hann reyna þad mótlæti, ad sviptast sinni elskulegu og uppbyggilegu konu, Valgérdi Þorgeirsdóttur, sem burtkalladist eptir undanfarandi varandi sjúkdóm, þann 26ta Apr. 1793. Med henni abladi Hann 4ra Sona, af hverjum einn, ad nafni Jón, deydi 7 ára gamall hjá Foreldrum sínum í Hlídarhúsum, hinir 3 lifdu módur sína, 2 þeirra Prestvígdir, nefnilega: Olafúr, nú Prestur ad Eyvindarhólum undir Eyafjöllum, og Asgrímur, fyrst Capellán ad Helgafelli, sídan Prestur ad Kaldadarnesi, og sídarst til Dals þínga undir

Eyafjöllum, hvar hann deydi; en Þorgeir lærdi í Skálholts Skóla, lifdi lengst af í Fodurhúsum ógiptur, uns hann 1812 dó þar; af hinum 2ur eru börn og barnabörn komin 14 alls. Fáord minníng þessarar Hans elskulegu konu, útkom prentud á Hans kostnad, í Leirárgördum 1799.

Arid 1794 giptist Hann aptur Ragnheidi Gudmundsdóttur, med hverri Hann abladi 3gja barna, þeirra ellstur er Paull, sem géck í Bessastada Skóla, studeradi sídan 2 ár vid Kaupmannahafnar Háskóla, kom þar eptir inn, og giptist í Fodurhúsum; dæturnar Valgerdur og Karitas eru ógiptar, og vóru þessi börn öll í Fodurhúsum þegar Hann deydi. Med þessari konu sinni naut Hann sömu blessunar og búsældar, sem fyrri, þrátt fyri þann kostnad, er Hann vardi til húsabyggínga á bújord sinni Gufunesi.

Árin 1801 og 1802 þjónadi Klaustrhaldarinn sjál. Sýslumanns Embætti í Gullbríngu og Kjósar Sýslum, og þó Hann ecki væri skólagenginn, leysti Hann þetta vandasama starf betur af hendi, enn margur hverr lærdari.

Árid 1808 fluttist Hann ad Ellidavatni á Seltjarnarnesi, og þar var Hann til daudadags.

Haustid 1818 gegndi Hann á nýum tíma Sýslumanns verkum í Gullbríngu og Kjósar Sýslum; en — þá vóru kraptar Hans mjøg veikir ordnir; og þá hafdi sá veikleiki, er sídan leiddi Hann til bana, svo búid um sig, ad fjer Hans hid mikla tók ódum ad þverra.

Á álidnu þessu sama hausti, kom fyrst bólga í fætur Honum, sem vidhéldst nockud fram á veturinn, en minkadi svo aptur, þar til ólídandi verkur greip Hann í annann fótinn, þann 29da Janúar. 1819, sem færdi sig smátt og

smátt um allann líkamann, hverjum síðan samblandaði sig þúng en þjáníngarlitil landfarsótt, og gjørdi þessi sjúkdómur med hægu andláti enda á Hans þarflega lífi, þann nærst eptirfylgjandi 8da Febr. um qvøldið kl. 10; var Hañ þá nærstum 82 ára gamall.

---

Svo lánglífur varð nú þessi Merkis-madur, en eins og Hann varð gamall, eins átti Hann og á skilið gott mannorð, því fáir munu þeir, sem í sínu standi vóru Honum duglegri, og færri munu þeir, sem fleiri góðverk létu eptir sig liggja. Sálar og líkhamans fjør hafði Hann af Gudi þegið fleirstum ødrum framar, og þetta fjør dofnaði hvergi nærri eins og von var til með vaxanda alldri; já, það sýndist, sem ellin varla mundi géta á því unnið, og þessu fjøri urdu þeir mannkostir samfara, sem því eru vanir að fylgja; traudlega varð Honum rádafátt — ecki andveldlega biladi hugur Hans — ecki skorti einurð eda kápp til að framqvæma það, sem með skynsamlegri umþenkíngu var áformad; við hvern, sem í hlut átti

var Hann einbeittur, og sleppti traudlega rétti sínum, þegar vísvitandi var gjört á hluta Hans; því ecki var, það Hans sinnisfar, að audmýkja sig mjøg fyrir mønnum, en fjarlægt var því, að Hann stofnadi til, að nockurr á-reitti Hann að fyrra bragdi. Svó vel á heimili sínu, sem útífrá, var Hann gladlyndur, og það til ens sídarsta. Í vinskap var Hann einhverr hinn stadfastasti og þrautbesti, svo aldrei sparadi Hann eigur sínar, þegar Hann vissi þeir þurftu nockurs med, jafnvel ádur enn þeir leitudu hans. Vid naudstadda var Hann hjálpsamur og hjartagódur, hvar uppá — medal annars — er þód dæmi: að seinasta haústid er Hann lifdi, gaf Hann fátækustu bændum í sínum Fædíngar-hrepp, uppá 2 Hdr. í nytsamlegum landaurum. Þetta kom ecki svo af vidqvæmni hjartans, sem af hlýdni vid Guds bodord, því fyrir Gudi og hans bod-ordum var sérlega djúp tilfinníng hjá Honum. Forsjónarinnar typtun bar Hann eins og vera bar, med audmýkt og þolinmædi.

Eckjur og munadarlausa, sem vóru Honum skyldir eda tengdir, eda høfdu kynnst vid Hann, sem hjú eda landsetar, tók Hann þrá-

falðlega í hús sín, hélt margar Ecfjur til daudadags, og ól upp fjølda múnadarleysingja, suma þeirra héldt Hann til bókmenta, en gjørdi alla sidan fødurlega úr gardi; Hann horfdi því í engann, jafnvel ecki mesta kostnad þessum til hjálpar, þegar vid lá, og þad, sem eigur Hans ecki gjørdu, þad gjørdu ráddeild Hans og dugnadur heim til bjargar. Vid landseta sína, er margir vóru og misjafnir, var Hann bædi sanngjarn og lídunarsamur, á medan enga pretti af þeim reyndi. Á heimili sínu var Hann stjórnsamur og reksamlegur; einhverr hinn besti búmadur ad framsýni og atorku; vid bádar konur sínar var Hann sérlega eptirlátur og ástúdlegur. Fyrir mentun barna sinna sorgadi Hann vel, og horfdi ecki í nockurn kostnad, sem til þess þurfti. Hirn mesti bjargvættur ferdamanna var Hann jafnan, er þad ómælt, sem af eigum Hans eyddist þessum til forsorgunar og fararbeina, bædi á medan Hann bjó á Gufunesi, og ecki sídur eptir þad Hann fluttist ad Ellidavatni.

Af þessu hér framantøldu sjest ysirhøfud, ad Hann sýndi sig ætíd duglegann, gódgjørdasamann, fjørugann, ráda- og hug-gódann, ein-

urdarsamann, gladlyndann, vinfastann, hjálpsamann, gudhræddann, þolinmódann, eckna og munadarlausra mikinn velgjørdamann, sanngjarnann, umlídunarsamann, stiórnsamann, røksamlegann, rausnarsamann, besta búmann, elskuríkasta Ektamaka og umhyggjusamasta besta Fødur.

Þvílíkur madur er nú úr gardi genginn, sem þessa eginlegleika hafdi til ad bera, og er þvi ecki ad undra þó Hann yrdi harmdaudur øllum þeim, er á einhvern hátt høfdu notid Hans adstodar, annadhvert sem eckjur, munadarlausir, hjú, landsetar, fátækirl, vinir, kona eda børn.

En — allir þessir gledja sig undir eins yfir því, ad Hann strídde hér karlmannlega allt til ens sídarsta, vita: ad Hann nú nýtur trúrra þjóna verdlauna, og vilja kappkosta, ad þeir á sídan, samfagnandi Honum, fái vordid hluttakandi sømu sælu.

GRAF-

# Graf-ſkrift:

Haf. í. minni.
Jeſúm. Kriſtum.
Hverr. aptur. er. uppriſinn. frá. daudum.
Og. nem. þú. ſtadar.
Dygd-elskandi. madur.
Vid. þeſſar. moldir. og, adgjæt.
Ád. hér. bídur. í. trú. öruggur.
Uppriſu. réttlátra.

PAULL. JONSSON.

Fæddur. þann. 29da. Martz. 1737.
Hoſpitalshaldari. í 19.
En. Klauſturhaldari.
Kirkjubæar. Klauſturs. vid. 30. ár.
Og. tviſvar. um. tíma.
Settur, Syslumadur.
I, Gullbríngu, og. Kjóſar, Syslum.

Fyrst. giptur. árid. 1761.
VALGERDI. ÞORGEIRSDOTTUR;
Sem. frá. Honum. deydi. 1793.
En. aptur. 1794.
RAGNHEIDI. GUDMUNDSDOTTUR
Nú. eptirþreyandi.
Hann. deydi. á. Ellidavatni.
Þann. 8da. Febr. 1819.
Og. var. þá.
Tuttugu. og. tveggja. af-komenda.
Aftrikur. Fadir. Afi. og. Lángafi.

---

*Verid. hrauftir. og. hugdjarfir.*
*Þér. allir. sem. vonid. á. Drottinn.*
*Og. vakid.*
*Því. þér. vitid ecki. á. hverri. ftundu*
*Ydar. Herra. muni. koma.*

Hjartkjærum Födur hriggur fetti
P. PAULSSON.

---

Saknː

# Saknadar-stef

eptir

Dygdarkasta Fødur,

Klausturhaldara

# Paul Jónsson,

af P. P.

---

1.

Hriggur muni um horfinn Fødur
Hreifir qvaki mærdar flakur,
Tregt um mál þó túngu veiti,
Tregi veldur efni ljóda.

2.

Prýddur dygdum prúdur Fadir
Paull, sem gisti sælu-vistir,
Son Jóns talinn, víst útvalinn,
Verdugt hrós hjá mengi kjósi.

3.

Hafinn er frá heimsins ylnu
Og hverskyns mædu nú fráskilinn,
Astríkastur allra vina!
Ættar blóm' og nidja sómi.

4.

Verdugast mèr væri' án efa
Víst ad minnast Hans mannkosta,
Sem ad framm ad daudans dymmu,
Dygdum strádi lífshlaup bráda.

5.

Ektamokum elsku staka
Ætíd veitti, en aldrei þreyttist
Adstod mestu og unun bestu,
Eins þeim sýndi, en kala thyndi.

6.

Fedur = ræktar frídast munstur
Framdi dyggt til endalyktar,
Ölln vardi, en ekkert spar'di
Til Arfa sóma og Dætra blóma.

7. Best=

7.

Bestann Födur Börn þvi syrgja,
Bestann ætíd nefna med kjæti,
Uns á hædum, horfin mædum
Honum fagna og gledi magna.

8.

Vinir trega Vin án maka
Vinfastasta og tryggvasta,
Hvergi trú'eg Hans nú búi
Hreinni trygd í manna bygdum.

9.

Likn var Hann og adstod eckna
Angur-bót, þá géck á móti;
Munadarlausra rétt vidreisníng,
Rádum medur jafnt sem dádum.

10.

Aumíngjans var örugg stytta;
Athvarf gésta líka mesta;
Vanefnadra viljann góda,
Byrdti hærra gjöldum stærri.

11.

Þolinmóður þrautir umbar,
Þrísti harm' í greindar barmi;
Gladlyndur í góðu hófi
Géck veg mœldann til farsældar.

12.

Feril þenna, Þú, fullsœli!
Fýsir, skunda heims um grundir,
Alla þá, sem ædstu girnast
Engla vist í hæðum gista.

13.

Gledur von sú grátid sinni:
Gladvæt sól á dýrdar bóli,
Muni' upprenna mæddum A r f a,
Mætann sjá nær F ø d u r náir.



